# ÁRDÍS

*Ársrit*

**BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA**

Verð: 75 CENT XIX. HEFTI 1951

# ÁRDÍS

## *Ársrit* Bandalags lúterskra kvenna

XIX. HEFTI



Ritstjórar:

MRS. INGIBJÖRG ÓLAFSSON, Selkirk, Man.
MARGRÉT STEPHENSEN, Winnipeg, Man.
MRS. ÞJÓÐBJÖRG HENRICKSON, Winnipeg, Man.

Fjárhagsnefnd:

MRS. INGA GILLIES, Winnipeg, Man.
MRS. FLORA BENSON, Winnipeg, Man.
MAGNEA SIGURDSON, Árborg, Man.
MRS. S. OLAFSON, Riverton, Man.
MISS M. HALLDORSON, Gimli, Man.
THORA OLIVER, Selkirk, Man.
MARGRÉT BJARNASON, Langruth, Man.
SIGÞORA TOMASSON, Hecla, Man.
RANNVEIG K. K. SIGBJÖRNSSON, Leslie, Sask.
VALGERÐUR HALLGRÍMSSON, Brú, Grund, Glenboro
KRISTÍN PÁLSSON, Lundar, Man.
SÍNA ANDERSON, Baldur, Man.

WINNIPEG, 1951

# *Innihald*

# Kirkja Guðs

Þá heyri ég óminn herra minn
frá helgidómi þínum.
Ég finn til þess í sérhvert sinn
í sálarstrengjum mínum
að kallar kirkjan þín:
Æ, komið inn til mín.
Ég færist heimi fjær
en frelsaranum nær
sem bregst ei börnum sínum.

Guðs kirkja öllum opin er,
hún engan frá sér hrekur,
þótt fátæklegur finnist hér
hans fórn hún að sér tekur.
Þar altari Guðs er,
sem einlæg trúin sér.
Ljós, dýrðin Lausnarans
lífið í kirkju hans
sálnanna samhyggð vekur.

Hún birtir andans boðskapinn
sem bjargar mannssálinni,
er lagði til vor Lausnarinn
með lífi' og kenning sinni.
Mín öld æ þakkar þér
þá fæðu gafstu mér
nærandi andans orð
við eilíft náðarborð,
í kærleiks kirkju þinni.

Þá héðan aftur út ég fer
ég bið í hjarta mínu.
Hvað sem að kann að mæta mér
mig geym í skjóli þínu.
Þinn styrkur styðji mig
mitt starf æ lofi þig
mig laði aftur inn
almættis kraftur þinn
að altari þínu.

**Ingibjörg Guðmundson**




## Christmas in Winnipeg

When looking through a box of cuts some time ago, I came upon these two, of the church built by the First Lutheran Congregation, Winnipeg, on the corner of McWilliam and Nena St. (now Pacific and Sherbrook St.) and dedicated in 1887.

These cuts are printed on the pages of the Ardis in the hope that they may bring to the many readers of this publication a feeling of joy and kind remembrances of the wonderful Christmas celebrations in the grand old church.

The church was lighted, not by electricity, but by many kerosene lamps and for extra lighting at Christmas, hundreds of candles burned on the ledge of the balcony and the choir platform.

Looking back on these Christmas festivities I shudder to think how close we were to tragedy, when I recall that many times during the Christmas concerts, flames, from the candles, flared up along the red velvet curtain back of the choir-loft rail and that only by the Grace of God and the constant vigilance of the Sunday School teachers, was this averted.

The heavy festoons of spruce were made by the Sunday School teachers.

A huge Christmas tree stood in front of the pulpit, laden with gifts and on the floor beneath and around the tree, were gifts of all sizes, awaiting distribution, which would take place after the Sunday School procession, when the children and teachers led by Mrs. Lara Bjarnason, marched up and down the four wide aisles of the church singing the Christmas hymns "Heims um ból" and "I Betlehem er barn oss fætt".

Is it that we are no longer young, that we look back on these




Christmas eve celebrations with such depth of emotion and that we do not get the same deep joy from the festivities of today? Perhaps it is that in our very early youth we had no responsibilities, no worries; anticipation and gratitude filled our hearts for the beautiful gifts and the joyous festivities and best of all, for then we were in the company of all our loved ones.

FLORA JULIUS BENSON

---

# Mitt höfuð Guð ég hneigi

„Bænin má aldrei bresta þig,
búin er freisting ýmisleg
þá líf og sál er lúið og þjáð
Lykill er hún að Drottins náð“.

Þegar ég var barn, kenndi hún mamma mér þetta vers, og ég las það á kvöldin og morgnana með hinum versunum mínum, og gjörði mér litla grein fyrir því hvað orðin þýddu. En nú, þegar farið er að halla undan fæti, skil ég æ betur og betur hvað mikill sannleikur er í þeim falinn. Því bænin er virkilega lykillinn að Drottins náð, og sá lykill sem opnar fyrir okkur aðgang að öllu því sem er helgast og dýrmætast í lífinu. Við sem höfum átt góða foreldra höfum lært falleg vers og bænir, sem við höfum svo lesið kvölds og morgna, og gjört okkur litla grein fyrir innihaldinu, marg oft. En þegar við þroskuðumst og mættum alvöru lífsins — veikindum eða ástvinamissi, þá ákölluðum við almáttugan Guð um hjálp. Ef að hjálpin svo kom ekki strax, þá urðum við vanstilt, já — og máske hættum þá að biðja á tímabili. Til hvers var að biðja Guð — þegar Hann tók frá okkur það sem við elskuðum heitast í lífinu?

En Guð er líka góður, og fyrirgefur okkur vanstillinguna og sérgæðin. Og með tímanum og reynslunni, þá lærum við að tala við Guð — í gegn um bænina. Ekki þá aðeins að heimta alt, líf og heilsu og vellíðan, fyrir okkur sjálf og þá sem okkur eru kærastir, heldur lærum við þá fyrst og fremst að **þakka!** þakka Guði fyrir óumræðilegan kærleik og umburðarlyndi. Við lærum að skilja að þó við göngum í gegn um dauðans dal, þurfum við ekki að kvíða, því að Hann elskar okkur, og þeim sem Hann elskar samverkar alt til góðs. Og við lærum þá líka að biðja um leiðbeiningu í daglegu starfi og striti. Og ef við gefum okkur tíma og næði til að hlusta eftir rödd Drottins, þá kemur svar og úrlausn, fyr en varir. Það veit enginn nema sá sem hefir reynt, hvílík sæla er í því fólgin, að beina huganum í bæn til Guðs, ekki aðeins kvölds og morgna, heldur á öllum stundum, að þakka Honum fyrir sólskinið á morgnana þegar við vöknum, og fyrir tunglskinið og stjörnuljósið á kvöldin þegar við háttum. Og að þakka honum fyrir góða vini, og glaðar stundir, og þægindi lífsins. Og þegar á móti blæs, að þakka þá fyrir trúarstyrk og eilífa von. Af eigin reynslu vil ég mæla með því við alla þá, sem lesa þessi orð, að það er virkilega „Náð að eiga Jesúm, einkavin í hverri þraut“, og að finna þann

dýrmæta sálarfrið sem andlegt samfélag við Guð hefir í för með sér. Og að læra svo loks að segja, með stillingu:

„Að þótt ég öðlist eigi, gef ei ég þreytast megi
Sem bezt að biðja þig.
Þú einn veizt tíma og tíðir, ég treysti því, um síðir
Þú bænheyrir og blessir mig".

**Guðlaug Jóhannesson**

---

# The Greatest Thing in the World

BY MRS. R. E. EMMETT

We have been told that the greatest thing—in the religious world is Faith.

But Paul in his Epistle to the Corinthians, 13th chapter, puts Love in the place of Faith.

I have taken you—in the chapter just read, to Christianity at its source. And there we have seen the greatest of these is Love. Paul says Love is the fulfilment of the Law—what a noble gift it is! The power of playing on the souls and wills of men, and rousing them to lofty purposes and deeds. Love is not a thing of emotion, it is the rich, strong, vigorous expression of the whole round Christian character. Paul gives us an amazing analysis of this supreme thing called Love, and is made up of nine ingredients, namely: Patience . . . "Love sufferth long"; Kindness . . . "Love is kind"; Generosity . . . "Love envieth not"; Humility . . . "Love boasteth not, is not puffed up"; Courtesy . . . "Does not behave itself unseemly"; Unselfishness . . . "Seeketh not her own"; Good Temper . . . "Is not easily provoked"; Guilelessness . . . "Thinketh no evil"; Sincerity . . . "Rejoiceth in the truth".

All of these make up the Supreme Gift . . . There is no time to do more than make a passing note upon each of these ingredients.

**1. Love Is Patience.**

This is the normal attitude of Love—not in a hurry. Love suffers long—beareth all things—hopeth all things—Love understands and therefore waits.

**2. Kindness.**

Love is active. Have you not noticed how much of Christ's life was spent in doing kind things, making people happy, doing a good turn. There is only one thing greater than happiness and that is holiness, and it is not in our keeping—but what God has put into our power . . . is the happiness of those around us, and that is largely secured by being kind. I wonder why we are not kinder than we are? How much the world needs it!

**3. Generosity.**

Love envieth not. Whenever you attempt a good work you will find others doing the same kind of work, and probably doing it better. Envy them not. Envy is a feeling of ill will.

**4. Humility.**

After you have been kind or done a kind deed go back into the shade and say nothing about it. Love hides even from itself. Is not puffed up.

**5. Courtesy.**

This is Love in society. Love in relation to etiquette. Does not behave itself unseemly. Politeness has been defined as Love in trifles.

**6. Unselfishness .**

Love seeketh not her own. Most obvious lesson in Christ's teaching is that there is no happiness in having and getting anything, but only in giving. Half the world is on the wrong scent—in pursuit of happiness. They think it consists of having, and getting and being served by others. It consists in giving and serving others. He that would be great among you saith Christ," let him serve". "It's more blessed to give than to receive".

**7. Good Temper.**

Love is not easily provoked. Nothing could be more striking than to find (good temper) among the nine ingredients of Love. We speak of temper as a family failing and matter of temperament, and yet the bible refers to it again and again as one of the most destructive elements in human nature. It is often the blot on a noble character. You know of men who are all but perfect—and women who would be entirely perfect but for an easily ruffled, quick-tempered or touchy disposition.

Christ gives the Prodigal Son as an example of temper. When the elder brother, in a fit of anger, wouldn't go into the house and make merry, he stayed outside and sulked. What is temper made up of? Jealousy, anger, pride, cruelty, sullenness. It is a test of Love—a relation of an unloving nature at the bottom of it.

**8. Guilessness.**

Is grace for suspicious people. You will find, if you think a moment, the people who influence you, are the people who believe in you. Love thinketh no evil, seeth the bright side, puts the best construction on every action.

**9. Sincerity.**

Rejoiceth in the truth. Sincerity of purpose—which endeavors to see things as they are and rejoices to find them better than suspicion.

So much for the analysis of Love. Now the business of our lives—to have these ingredients fitted into our characters. Is life not full of opportunities for learning Love. Every man and woman every day has a thousand of them.

The world is not a playground, it is a schoolroom.

Life is not a holiday, but an education. And the one eternal lesson for us all is: How much better we can love.

What makes a good artist? Practice. Good musician? Practice. What makes a good man or woman? Practice. Nothing else. If a person does not exercise his arm he develops no biceps. If he does not exercise his soul he acquires no muscle in his soul, no strength of character nor beauty of spiritual growth. What was Christ doing in the carpenter's shop? Practicing. He increased in wisdom and stature in favor with God and man. Do not quarrel therefore with your lot in life. Do not complain of its never ceasing cares, the vexations you have to stand. That is the practice which God appoints to you . . . in making you patient, humble, generous, unselfish, kind and courteous. Therefore keep in the midst of life. Be among things, troubles, difficulties, obstacles. Character develops in the stream of life.

I have named a few elements of Love, but these are only elements. Love itself can never be defined. The Love of God melts down the unlovely hearts and makes them into a new creature.

We love others. We should love everybody because God first loved us. Love never faileth. Look at the perfect character of Christ, and His great sacrifice, when he laid down His life for us. God so loved the world that he gave His only begotten Son.

Can you imagine your life so filled with Christian way of living that you could love all people, even your enemies. Christ said: "Father forgive them, for they know not what they do". The world of the future is being made by what we do or fail to do.

I only pass through this world but once. Any good thing, therefore, that I can do, any kindness that I can show to any human being, let me do it now. Let me not neglect it, for I may not pass this way again.

---

# Hið góða hlutskipti

**Hin beztu gæði eru böl að græða, Og bæta nauð. —**

---

MRS. RAGNHILDUR GUTTORMSSON

*Flutt á þingi Bandalags Lúterskra Kvenna í Langruth 1951*

Ég tek mér fyrir einkunnarorð þetta stef eftir Matthías Jochumsson, því frá fyrstu öldum hefir það verið, og er enn, hlutskipti konunnar. Jafnvel í fornöld er bardagar og styrjöld voru daglegir viðburðir var það konan er var læknirinn og græddi sárin. Það voru hinar mjúku hendur konunnar er ófu skyrturnar er engin vopn bitu, og bjuggu til hin lífgefandi smyrsli, er græddu hvert sár. En sú líkn var takmörkuð og náði aðeins til þeirra nánustu.

Það er til lítil saga í gömlum bókum er lýsir svo vel víkingahugsunarhættinum, að mig langar til að segja ykkur hana. Hún er um fagra og drambláta konungsdóttir er hafði tvo biðla. Annar var Ásmundur, en hinn Hrómundur að mig minnir. Nafni konungsdóttur hefi ég gleymt en við skulum kalla hana Áslaugu.

Einn fagran vordag stefndi hún báðum biðlum sínum á fund sinn og kunngerði þeim ákvörðun sína.

„Hvern þann af ykkur er í haust getur sýnt mér fallegri hendur, þann hinn sama mun ég velja mér fyrir mann".

Ásmundur hló hátt er hann kom út úr höll konungsdóttur. Hann kallaði saman menn sína, hrinti á flot skipi sínu og sigldi út á skínandi hafið.

Hrómundur dróg á hendur sér glófa, og sat við eld með þrælum

allt sumarið. Ef til vill hefir hann ráfað um skógana, nlustað á kvak fuglanna og dáð fegurð náttúrunnar, máske jafnvel numið lífsspeki af þrælunum. Sagan getur ekki um það.

En um haustið kom Ásmundur úr víking með flota af skipum er hann hafði unnið í hernaði. Er hann gekk til stefnu við Áslaugu voru handleggir hans hlaðnir hringum til axla. Hendur hans voru sverðbitnar, og sigg í lófum, en fingurgull á hverjum fingri. Hrómundur hélt fram sínum höndum, drifhvítum og mjúkum, en Áslaug sá þær ekki. Hún sá einungis hina glitrandi prýði á höndum Ásmundar er að boði hennar settist við hlið hennar í hásætinu.

Hrómundar er ekki getið meir í þeirri sögu, en Ásmundur og Áslaug héldu brúðkaup sitt og lifðu vel og lengi. Ekki skyggði það hið minnsta á hamingju þeirra hve mörg mannslíf hún hafði kostað. Slíkur var hugsunarhátturinn á víkinga-öldinni. Víkingar fóru ekki að lögum, þeir trúðu á mátt sinn og megin, og tóku það er þeim leizt, án þess að sýna hina minnstu meðaumkvun með þeim er minnimáttar voru.

Er kristna trúin kom til sögunnar breyttist hugsunarhátturinn, en lengi vel náði sú breyting ekki til hinna undirokuðu lægri stétta. Hin fyrsta hreyfing til að bæta kjör alþýðunnar er sögur fara af kemur frá konu er uppi var um 1035. Við könnumst öll við nafn hennar úr sögunni, hún var Lady Godiva og er trúlegt hún hafi verið af norrænu bergi brotin þar sem nafn bróður hennar var Thorold. Maður hennar var jarl í Coventry, harður í horn að taka og skattaði alþýðuna miskunnarlaust.

Godiva komst við af neyð fólksins, og bað jarl oft og innilega að lækka skattana. Er jarlinn þreyttist á þrábeiðni hennar setti hann henni að lokum þann kost er hann bjóst síst við hún mundi ganga að.

En meðaumkvun hennar með bændalýðnum var sterkari en vansæmdartilfinningin, og með sinni velkunnu reið í gegn um Coventry, vann Godiva líkn fyrir þegna manns síns. Saga þessi hefir geymst í meir en 900 ár svo stórkostlegt hefir það þótt að göfug kona legði við sóma sinn til að líkna ruddalegum vinnulýð.

Síðan hafa margar konur fórnað lífi sínu á ýmsan hátt til að bæta neyð smælingjanna. Ein af þeim var Elizabeth Fry. Hún var af ríkum kvekaraættum og lifði í allsnægtum. Einn morgun á leið til kirkju sá hún hóp af afbrotamönnum hlekkjaða saman á öklunum með sterkri járnkeðju. Voru þeir að mylja grjót með þungum sleggjum. Henni rann til rifja hve eymdarlegt var útlit þeirra, og sú hugsun gagntók hana að einnig þeir væru Guðs börn, engu síður en velbúna fólkið, er streymdi fram hjá þeim í skraut-

legum kerrum á leið til Guðs húss; og hún einsetti sér að minnsta kosti að grennslast eftir aðbúnaði þeirra í fangelsinu.

Hið fyrsta fangelsi er hún heimsótti var hið illræmda Newgate fangelsi í miðri London. Það var bygt á almannafæri til viðvörunar almenningi, og var girt járngrindum líkt og búr villidýra, enda var fólkið inni fyrir meira líkt dýrum en menskum verum. Spillingin og eymdin keyrðu úr öllu hófi. Mrs. Fry fékk leyfi fangastjóra til að reyna að bæta kjör fanganna. Gerði hann það mest til að losna við hana og bjóst eigi við miklum árangri. En eigi leið á löngu áður en Mrs. Fry hafði komið á reglu þar sem áður ríkti hin mesta óregla; og hið ógæfusama fólk naut fljótt betri aðbúnaðar sökum tilrauna hennar. Fangastjórinn og bæjarráðið gátu varla trúað sínum eigin augum er þeir sáu hve miklu hún hafði til vegar komið á stuttum tíma, með áhrifum sínum á fangana. Frægð hennar fór víða um lönd, og ekki einungis um England heldur öll hin stærri ríki Evrópu, bættu fyrirkomulag í fangelsum sínum samkvæmt ráðleggingum hennar.

Einn af hinum svörtustu blettum á sögu hvítu þjóðanna er þrælasalan. Varla nokkurntíma hefir mannvonzkan sýnt sig í hryllilegri mynd. Livingstone kallaði hana: „Hið opna sár heimsins“. Það liðu nærri tvö hundruð ár af stöðugri baráttu áður hægt var að sannfæra hina hvítu kynslóð um að Svertingjar voru einnig mannlegar verur með mannlegum tilfinningum og réttindum, og þó ekki fyrr en frændur og vinir höfðu barist á banaspjótum í þrælastríðinu í Bandaríkjunum. Ein kona, að minnsta kosti, tók verulegan þátt í þeirri baráttu, Harriet Beecher Stowe, er með bók sinni, „Uncle Tom's Cabin“ og öðrum ritum átti drjúgan þátt í að snúa almenningsálitinu Svertingjunum í vil.

Allir kannast við Florence Nightingale, kvenhetjuna miklu. Það er óþarfi að endurtaka hér hið mikla og þarfa verk er hún vann til að bæta hjúkrunaraðferðir og líkna hinum særðu.

Það eru ótal margar aðrar konur er hafa helgað líf sitt einu og öðru góðu málefni jafnvel oft og tíðum lagt líf sitt í sölurnar fyrir það málefni. Franskar og rússneskar konur tóku mikinn þátt í stjórnarbyltingum þessara landa er stefndu í þá átt að bæta kjör hinnar undirokuðu alþýðu. Við dáum hugrekki þeirra og fórnfýsi, en stundum ekki aðferðir þeirra, sem hafa máske verið óhjákvæmilegar, þar sem við rótgróna harðstjórn og dæmalausa grimd var að etja. Indverskar konur sýndu sama hugrekki í baráttu sinni fyrir auknu frelsi í Indlandi, en aðferðir þeirra voru bygðar á lífsskoðun Ghandi, er var náskyld kenningum Krists.

Það mætti vel einnig minnast hér á konur þær er fórnuðu lífi sínu og kröftum á altari jafnréttinda fyrir konur, baráttu sem

er enn ekki algjörlega unnin. Okkar yfirstandandi tímar eiga einnig kvennhetjur, ég vil aðeins minnast á eina með nafni Eleanor Roosevelt, er svo trúlega hefir barist fyrir mannréttindum og betra samkomulagi milli þjóðanna. En svo eigum við einnig óteljandi aðrar kvenhetjur, eins og heimurinn hefir ætíð átt; hetjur sem lítið ber á en sem vinna í kyrþey í þunga og hita dagsins, og sem svo oft koma svo afarmiklu góðu til leiðar.

Kristna kirkjan og kenningar hennar eru hin eina von heimsins, og konurnar eru hinar traustustu máttarstoðir kirkjunnar. Og verkefnið er enn mikið, og verkið varla hálfgert. Heimurinn er enn fullur af úlfúð og grimd. Víkings-eðlið er enn eigi útdautt. Kain myrðir enn Abel, og blóð bróður hans hrópar til Guðs af jörðunni. Kain kallar enn um öxl sér um leið og hann flýr rödd sinnar eigin samvizku: „Á ég að gæta bróður míns?“ og eldur hatursins logar upp úr hverju spori er hann tekur.

Hin stærsta þörf heimsins nú er friður, og friður finnst aldrei þar sem ekki er kærleikur. Eitt skáldið okkar segir:

„Trúðu á tvent í heimi,
Tign sem æðsta ber,
Guð í alheims-geimi,
Guð í sjálfum þér‘.‘

Ef vér trúum á Guð í sjálfum okkur, hljótum vér einnig að trúa á Guð í náunga vorum. Þess vegna hlýtur að vera eitthvað guðdómlegt í fari hans ef vér aðeins tökum tíma til að leita eftir því. Allir eru mennirnir að leita að fullkomnun; Íslendingar eins vel og Kínverjar, Rússar ekki síður en Englendingar, bæði Japanir og Ameríkumenn.

Engin ein þjóð er alfullkomin en hver þjóð hefir eitthvað til síns ágætis, ef þær aðeins vildu kannast við hið góða hver hjá annari. Ef svo gæti orðið væri fyrst von um frið. En einhver ókunn öfl virðast vinna á móti friðar-hugmyndinni, og ófrægja hana sem mest má verða. Á liðnum öldum höfum við haft píslarvotta ýmsra hreyfinga, en nú höfum við píslarvotta friðarins. Tveir af hinum mest friðelskandi mönnum nútímans, Ghandi og Count Bernadotte létu lífið fyrir skoðanir sínar; og ýmsir aðrir málsmetandi menn er unna friði eru lítilsvirtir og hafðir að athlægi, fyrir tilraunir sínar í þá átt.

Er því nokkuð annað göfugra verk er bíður konunnar nú, en að vinna að friði; að vinna að því að uppræta víkings-eðlið er enn er við líði; að hlúa að þeirri hugsjón að allir menn eru jafnir fyrir augliti Guðs hver svo sem er litur þeirra eða trúar-játning; að auka umburðarlyndi milli þjóðanna, og kannast við það sem miður

má fara í okkar eigin fyrirkomulagi, og virða það sem gott er í fari mótstöðumanna okkar; að mótmæla grimd hverjir svo sem sýna hana, og að minnast þess að „sjaldan veldur einn þegar tveir deila“, er eins satt nú og það hefir nokkru sinni verið.

Kristur sagði: „Þú skalt elska Guð og þú skalt elska náunga þinn“. Postulinn segir: „Ef vér ekki elskum bróður vorn er vér höfum séð hvernig getum vér þá elskað Guð er við höfum ekki séð“. Þess vegna hlýtur kærleiki okkar til Guðs að byrja með kærleika til mannanna. Slíkt er hið góða hlutskipti, að læra af Kristi og svo að miðla heiminum af þeim lærdómi það er hann mest þarfnast, aukna góðvild meðal allra manna; aðeins það getur gefið heiminum frið. —

Matthías Jochumsson segir:

„Því fyrst er konan kjörin til að fæða
Og fóstra hið veika, næra það og klæða,
Hið hrelda að hugga, sjúkt og sárt að græða
Og sjá um eldinn — lífsins eld að glæða.

Hauklyndu svannar, lyftið fyrst því lága
Og lærið svo hin stærri heit að efna,
Og fullréttarins fögru braut að stefna
Því andans líf og ljós er þó hið háa“.

**Matt. Joch.**

Það er engin hærri hugsjón til en að beita áhrifum vorum í þá átt að rætast megi fyrir heitið er heiminum var gefið fyrir 2000 árum: „Friður á jörðu, og velþóknun Guðs meðal mannanna“.

---



*Scene of the beach at Sunrise Lutheran Camp — Husavick*

# Mrs. Ásdís Hinriksson

Eftir SÉRA RÚNÓLF MARTEINSSON, D.D.



Mrs. Ásdís Hinriksson

Sunnudaginn, 6. maí, 1951, kom nokkur hópur fólks saman, á heimili Mr. og Mrs. Sigfús Bergmann, er búa nokkrar mílur fyrir sunnan Gimlibæ. Tilefnið var það, að þá átti Mrs. Ásdís Hinriksson, frá elliheimilinu á Gimli, móðir Mrs. Bergmann, afmæli. Þann dag var hún 93 ára. Auk afmælisbarnsins og heimilisfólksins, voru þar komin: Mrs. Þjóðbjörg Henrickson, tengdadóttir hennar; Mr. A. S. Bardal bróðir hennar; tengdabróðir og systir hennar, Dr. og Mrs. R. Marteinsson, og nokkur fleiri skyldmenni ásamt öðrum vinum.

Árdís hefir mætur á þessari aldurhnignu konu og óskar eftir nokkurri fræðslu um hana, og vil ég nú leitast við að segja nokkuð frá henni.

Hún er fædd að Svartárkoti í Bárðardal á Íslandi, 6. maí, 1858. Foreldrar hennar voru þau hjónin Sigurgeir Pálsson (síðar Bardal) og Vigdís Halldórsdóttir. Þegar hún var 14 ára fluttist fjölskyldan vestur í Húnavatnssýslu, og þar átti hún heima það sem eftir var af veru hennar á Íslandi. Árið 1883 giftist hún Gunnlaugi Hinrikssyni frá Efra-Núpi í Núpsdal. Árið 1886 fluttu þau vestur um haf og tóku sér bólfestu í Winnipeg. Þau komu með tvo syni, Hinrik og Sigurgeir. Hinn síðari dó eftir stutta veru í Winnipeg; en í þeirri borg fæddust þeim tvö börn, Vigdís (Mrs. Bergman) og Jakob. Manninn sinn misti hún árið 1890.

Hvað var þá framundan fyrir hana og börnin? Jakob var tekinn í fóstur af föðurbróður sínum Jakob Hinrikssyni og konu hans. Hjá þeim var hann í 10 ár, fór þá til móður sinnar, en Hinrik og Vigdís voru hjá móður sinni til fullorðins ára.

Ekkja, efnalaus, með tvö börn til að annast, og ekki fær í máli landsins. Ekkja hefir hún verið síðan. En hún átti skýra hugsun, hugrekki, viljaþrek, ósérhlífni, einlægan kærleika til barnanna sinna og sterka kristna trú. Hún hikaði sér ekki við harða vinnu,

notaði vel þau tækifæri sem gáfust, og fór vel með þann litla arð, sem vinnan gaf henni. Að nokkrum tíma liðnum stofnaði hún gistihús og stjórnaði því svo vel, að það gaf henni sæmilegan árangur í nokkur ár.

Seinna breytti hún nokkuð til; fólk hafði hjá henni heimili lengri tíma, jafnvel fleiri ár, og þetta farnaðist vel.

Þrátt fyrir takmarkaðan fjárhag, ferðaðist hún, árið 1910, með Halldóri bróður sínum, til Íslands. Hún hafði mikla unun af þessari skemtiferð.

Á síðari árunum í Winnipeg, starfaði hún í djáknanefnd Fyrsta lúterska safnaðar, og í því starfi framkvæmdi hún allmikið af heimsóknum. Það verk lét henni einkar vel. Fólki þótti vænt um komu hennar og söfnuðurinn var ánægður með starfið.

Árið 1915 hófst nýtt og merkt tímabil í æfi Mrs. Hinriksson, þá var hún kölluð til starfs á elliheimilinu, sem Íslenzka Lúterska kirkjufélagið hafði stofnað, síðar nefnt Betel. Miss Eleonora Julius var fyrsta forstöðukona á því heimili, sem þá var í Winnipeg; en frá upphafi starfsins á Gimli, stjórnuðu þær heimilinu báðar, Miss Julius og Mrs. Hinriksson, í bezta samkomulagi. Þær skiptu með sér verkum þannig, að Miss Julius hjúkraði sjúklingunum og leit að miklu leyti eftir vistmönnum; en Mrs. Hinriksson annaðist matreiðsluna, sá um innkaup og tók við ráðagjörðum og fyrirmælum stjórnarnefndarinnar.

Mrs. Hinriksson starfaði 18 ár á Betel, og voru þau ár auðug af ávöxtum til góðs. Hún vann af mikilli elju, góðri ráðsmensku og óbrigðulli samvizkusemi. Heill heimilisins var henni fyrir öllu.

Hún vissi, að það er öllu fólki til góðs að hafa eitthvað nytsamt fyrir stafni, eftir því sem heilsan leyfir. Út frá þeirri hugsun kom hún á fót tóvinnu. Þar var kembt, spunnið og prjónað með mikilli ánægju. Það varð góður árangur af sölu þess sem búið var til og var það svo notað til að uppfylla einhverjar þarfir á heimilinu.

Að daglegum morgunguðsþjónustum unnu þær báðar forstöðukonurnar: Miss Júlíus las lesturinn, en Mrs. Hinriksson annaðist sönginn. Hún hafði góða sönghæfileika og kunni fjölda af sönglögum. Hún valdi sálmana og leiddi sönginn. Hún aðstoðaði einnig við aðrar guðsþjónustur.

Eins og hún er söngelsk, er hún einnig ljóðelsk, kann sæg af fögrum íslenzkum ljóðum. Ég er sannfærður um að heimilisfólkið á Betel hefir að einhverju leyti notið þessara andlegu auðæfa hennar.

Bæði Mrs. Hinriksson og Miss Júlíus lögðu mikla rækt við gesti, sem bar að garði.

Þegar athuguð eru þessi 18 ár sem Mrs. Hinriksson starfaði á Betel, hygg ég, að því verði ekki móti mælt, að með frábærri trúmensku sinni og vingjarnlegri framkomu, ávann hún sér miklar vinsældir bæði meðal vistmanna og starfsfólks. Samvinna hennar og stjórnarnefndarinnar var einnig ágæt.

Árið 1922 varð hún fyrir þeirri sorg að missa son sinn, Hinrik. Fyrir familíu hans og aðra var sár missir að þeim ágætismanni. Ekkja hans og börn þeirra hafa haldið hlýju sambandi við Mrs. Hinriksson.

Árið 1933 varð Miss Inga Johnson, ágæt hjúkrunarkona með mikla þekkingu og víðtæka reynslu, forstöðukona á Betel. Stjórnarnefndin bauð bæði Miss Júlíus og Mrs. Hinriksson heimili á Betel það sem eftir var æfi. Mrs. Hinriksson þáði boðið, en Miss Júlíus flutti burt. Samkomulag og samband Miss Johnson og Mrs. Hinriksson var hið allra yndislegasta sem hugsast gat. Báðar voru hreinasta gull. Virðing og vinsemd einkendi sambandið á báðar hliðar.

Önnur 18 ár eru liðin síðan Mrs. Hinriksson lagði niður starf á Betel. Hún hefir unað hag sínum vel, og hún hefir einnig leitast við að vera heimilinu að liði. Hún hefir haldið áfram að hjálpa til við sönginn og hún hefir gjört allmikið af því að lesa fyrir þá sem þurftu þess með. Aldurinn færist yfir hana og ekki er að búast við miklu starfi úr þessu; en það gegnir mestu furðu, að enn er hún að prjóna útflúraða hvíta fingravettlinga, og verkið er ennþá snild.

---



*Three Dormatories at the Camp*

# Our Warp and Woof

BY INGIBJORG J. OLAFSSON

Tonight I am dealing with a topic never dealt with before at our conventions. If I fail to give you any inspiration or enjoyment it is not because my subject is not worthy, although it may be too extensive to be covered in a short paper. I feel it is timely and in order to meditate for a short while on some of the privileges and responsibilities that are ours as Canadian citizens.

More than a hundred year ago, Lord Durham uttered a prophesy when he spoke of what was then called "Upper and Lower Canada". He said: "These small and unimportant communities could be elevated into a society having some national importance". In its time this prophecy was considered bold and optimistic. Now, 112 years later, we know Canada, reaching from coast to coast, from the Arctic to the boundaries of the United States, as one of the most prosperous countries in the world. We know of the wonderful cities in the east surrounded by great natural resources. Beyond these are the hills and tundra regions reaching all the way to the Arctic, scarcely touched by human hands. We know its fertile, beautiful prairies dotted with cities and towns in the central regions; its mountains, cities and towns to the west with the grandeur of scenery and the refreshing cool breath of the Pacific Ocean. We have some idea of the great productions and we also have an idea of the possibilities yet unexplored and untouched. This is our Canada of today.

The next question that arises is about its people, and we can truly answer that we are all kinds of people. The energy, tenacity and family spirit of the French was necessary for the upbuilding of the raw land. The efficiency and self-control of the people from the British Isles was added to this during the early years. During the next hundred years many splendid characteristics were added by people from many countries, there now being 30 to 40 national groups in Canada. Of course these groups brought their faults and shortcomings as well. But, in spite of that, we can truly say that out of the cultures of these national groups has been forged the common denominator of the Canadian character.

A hundred years is a very short span in human history, so we

think of Canada as a very young country not having attained full maturity nor development. Naturally we see today diverse cultures marching cordially side by side, cooperating and making allowances. As they merge ideas they are still preserving ideals. They are attempting to weave the cultures and institutions of all these people into an orderly and attractive pattern of our national life. That is our Canadian nation of today and of the future. During this process of weaving, it is important that the spirit of tolerance and brotherly love may prevail, in order that the nation thus formed may pass all the tests that are facing it.

Then the question arises. What are some of these tests? First I would mention the tests of Democracy; one of these is the freedom its people have from dependence on authority. Even if Canadians appreciate all the improved standards of living; all the social service work, public health, pensions, unemployment insurance, family allowances and many other things, they understand fully that these are merely incidentals on which they have no right to rest their oars or take undue advantage of. It has been said that Canadians do not wish to become dependent on their government. They look for adequate reward for initiative; they ask for the ability to work and a safeguard for those who cannot work. May that spirit always predominate as dependance brings fear and then follows this danger of following the line of least resistance to please the authorities rather than be cut off from their benefits even if the demands might go against the consciousness of what is right or wrong.

Another test is that of freedom. What a challenge the freedom of our democracy brings to all its people! Canadians reject the suggestion that men should be made good citizens by compulsion or coercion. They know that more good is accomplished by inducting the Golden Rule into Canadian life than by government edicts. That test of recognizing the rights of our fellowman has been termed the touchstone of other virtues. May that virtue always stand out as one of the cardinal principles of Canadian life.

Another phase of that freedom is that of religion. People of this country worship in many different ways, in many languages. But their belief in God, their emphasis upon trust, hope and love, work for the development of good citizenship. In this land of religious freedom the church, whatever its denomination, is the

voice of the people's conscience, and that spiritual culture is truly the greatest power in Democracy and the most important in a modern world. Church authorities here, as elsewhere, are emphatic in their condemnation of atheism and the tyranny of Communism. We hope and pray that the time will never come when that religious freedom will hampered. We pray that Canadians will never be doomed to go through religious persecutions endured by some of our fellow Christians in some other countries. May our country be "glorious and free" in that respect.

The future seems promising and bright. We can listen at any time and hear our country growing. The very atmosphere seems rich with promise. May we truly feel the truth of the words spoken in 1778 by Voltaire, when he was on his way to Paris to die: "The young are fortunate, they will see great things". This nation of 14 million people covets no other man's land, but wishes that all nations of the world may develop an exalted spirit of cooperation and harmony. We truly hope that our youth will see great things in a world where peace reigns and wars have ceased.

Before closing I would like to bring this home to us, a group of women, members of a Christian organization gathered here from different communities.

We have made our homes in Canada. Many of us are born here, others have come from some other country across the ocean. Naturally we have great respect for the land of our forefathers. We of the Icelandic group are proud of its culture of more than a thousand years, its traditions and sagas. You who have come from other countries have your national culture, equally dear to you and worthy of being respected. May I say that we are like trees planted in Canadian soil securing our livelihood and sustenance from there. Our roots extend deeper and gather food from the culture and characteristics of the past. The sap thus formed, flows through the tree to its branches, making it strong and dignified, beautifying and enriching Canadian life.

But first and foremost we are a religious group. We rejoice that we are a league of Lutheran women, members of the great Lutheran church which is the mother church of all the Protestant churches. Our roots extend deep into that faith of our fathers and we are conscious of the spiritual strength that that gives us. We are also conscious of the strength that comes from being united in one

central organization. We know that our vision becomes clearer through that union, our interests become broader. It develops tolerance and enthusiasm and helps us to realize the strength of the bond that binds us to our beloved Lutheran church.

As an organization as well as individuals we have our responsibilities in doing our share of the weaving of the national pattern of Canada. As an organization we have laid out our plan of work for our youth—the youth of our church in Canada.

For many of us the thoughts turn back to a convention held here in this church seven years ago, when we stood on the crossroads and prayed for guidance as to which road to take. If we had dared to prophesy for the future our prophecy might have been considered bold and optimistic like that of the Canadian statesman of 112 years ago. During these seven years some of our dreams have been realized. Many attractive buildings have been erected on a camp site all our own, and a church camp has been operated there for five summer seasons. Thus we are attempting to do our share in influencing a group of girls and boys who in turn will become leaders and influence many others. We are attempting to assist them in weaving an orderly and attractive pattern for their future. We hope to make them better citizens of Canada and of the world and above all do we hope to make them nobler disciples of our Lord and Saviour, and more devout members of our church.

We are confident that this work, for which God has allowed us to lay the foundation, will grow if we prove worthy of the task allotted to us. It will grow in spite of all our shortcomings and half-heartedness. Let us remember that we are well equipped for our task of weaving. Our warp is found in the life-giving strength given to us by our spiritual mother, the church. Our woof obtains its tenacity from the national culture which also is our heritage.

With such warp and woof to work with on the loom supplied by the strength of our organization, we pray God to guide the hands of the weavers. May they so weave that the pattern has no wrong side which does not welcome the scrutiny of critical eyes. May both sides be made faultless and beautiful, strong and enduring.

Thus we, the Lutheran Women's League are united in prayer, steadfast and determined in doing our small share in bringing into being that better world of which good men dream. We will work faithfully, in quietness and strength, transmitting our work to future Canadians. We are confident that time will prove that we

are building on a solid foundation—that we are weaving an enduring pattern. We are assured that what is worthy in our work, and that of our children, will be preserved; thus making more beautiful and more pleasing to God, that intricate pattern of Canadian life.

---

# Úr skýrslu Ársritsins „Árdís"

*Flutt á Kvennaþingi Bandalags Lúterskra Kvenna að Lundar, Man., sept. 1950*

Ég var að líta yfir gömul hefti af Ársritinu „Árdís" nýlega og kom meðal annars niður á Ársskýrslu Bandalags Lúterskra Kvenna frá árinu 1938, samda af þáverandi forseta Bandalagsins, Mrs. Ingibjörgu J. Ólafsson. Ég dáðist að þessari skýrslu eins og má gjöra að öllum skýrslum Bandalagsins.

Ef maður tekur tíma til að líta til baka og yfirvega hversu mikið hefir verið starfað og afkastað frá byrjun, er það aðdáanlegt.

Það sem Mrs. Ólafsson minnist á Árdís í þessari áminstu skýrslu vil ég birta hér:

„Ársrit okkar hefir heppnast betur en nokkur okkar þorði að gera sér vonir um. Það var á þingi í Langruth fyrir sjö árum að sú ákvörðun var tekin að gefa út ársrit. Man ég eftir að þegar ég frétti um það óttaðist ég að það yrði okkur ofurefli. Guðs blessun hefir hvílt yfir því. Ég hygg að þeir sem ritið hafa lesið, hafi haft heldur gott af þeim lestri. Kaupendum þess fjölgar með hverju ári. Við sem unnið höfum að útgáfu þess höfum verið með einum hug og hefir öll samvinna verið hin ákjósanlegasta. Konur út um bygðir hafa sýnt áhuga við útbreiðslu þess".

Eftir að hafa lesið þetta flaug í huga minn: „Hvernig standa sakir nú? Hefir Ritinu farið fram eða aftur síðan þetta var ritað fyrir 12 árum síðan?

Eftir ofurlitla yfirvegun þessu viðkomandi, er álit mitt að þessi orð eigi eins vel við í dag eins og þá.

Áreiðanlegt er, að Guðs blessun hefir hvílt yfir þessu litla Riti. Margt fróðlegt og skemmtilegt hefir það haft inni að halda frá byrjun. Persónulega og bréflega verðum við varar við að það á marga vini sem lýsa yfir ánægju sinni og gagni af lestri þess. Þær konur er annast um ritstjórn þess, og þær sem í það rita, gjöra það þannig úr garði. Kaupendum fjölgar árlega. Samvinnan ákjósanleg og að öllu leyti án endurgjalds. Konur út um bygðir sýna

áhuga og leggja mikið á sig að viðhaldi þess ennþá, eins og fyrstu árin.

Fjárhagslega má heita að Ritið beri sig vel þrátt fyrir eðlilegan hækkandi útgáfukostnað árlega.

Frá sögulegu sjónarmiði hefir Árdís að mörgu leyti gildi. Þar varðveitast, auk ritgerða, ótal skjöl og skýrslur er fjalla um kristindómsmál, ásamt myndum látinna félagssystra er aflokið hafa stóru dagsverki af óeigingirni og trúmensku.

Á þessum tímamótum Bandalagsins — Aldarfjórðungs afmæli þess — horfum við fram á veginn með ósk og bæn í huga, að „Árdís" í samráði við önnur störf B. L. Kv. megi halda áfram að verða gefin út.

Guð blessi meðlimi Bandalags Lúterskra Kvenna, og alt starf þess. —I. GILLIES

---

# Jól og vor

MRS. HRUND SKÚLASON

Forseti, félagssystur og gestir:

Í kveld vildi ég minnast þessara tveggja orða, jól og vor, stutt orð en þýðingarmikil. Bæði hafa þann eiginleika að vekja það bezta sem til er í mannssálinni. Bæði vekja þau hugsunina um ljós og fegurð, frið og fögnuð. Veita okkur löngun til að komast í samband við þann mátt, sem okkur er æðri. Töfraorð því þau tendra neista trúar og vonar í brjóstum okkar. Lyfta hug okkar upp úr því hversdagslega og inn á dýrðar og sólskinslönd.

Jólin koma á þeim tíma árs sem dimmast er í náttúrunni. Alt er dautt og sölnað og í stað sólskins og blíðu er myrkur og kuldi. Skammdegið setur drunga og kvíðasvip á hvert andlit. Menn kvarta, þó yfir litlu sé að kvarta þegar við berum okkur saman við þá, sem altaf lifa við hungur og voða. Því miður gleymum við oft hvað mikið við höfum fyrir að þakka og látum kulda og myrkur skammdegisins setjast að í sálum okkar. En svo birtir alt í einu. Svipurinn breytist, sporið léttist; það er alt í einu komið sólskin. Hvað veldur þessari miklu breytingu? Ekki er það veðrið, því ennþá er kaldara í dag en í gær, ekki sést til sólar og grá kulda- og þokumóða grúfir sig yfir lög og láð. Hvaðan kemur þá birtan? Hún kemur úr okkar eigin sálum, því í morgun heyrðum við í útvarpinu óm af jólasöng.

„Í dag er glatt í döprum hjörtum,
því Drottins ljóma jól“.

Neistinn sem myrkrið og kuldinn voru að kæfa blossar upp á ný. Við töfraorðið „Jól“ breytist alt. Myrkrið hverfur og dagarnir, sem áður voru svo langir og leiðinlegir, eru nú ekki orðnir nógu langir til að koma í verk öllu því sem gjöra þarf fyrir jólin. Nú gleymast smáleiðindi hversdagslífsins. Menn hætta að hugsa um sjálfa sig og hugurinn hvarflar til vina fjær og nær. Hvernig get um við sem bezt glatt þá um jólin?

Það er sagt að þetta umstang og eyðsla, sem jólaundirbúningi fylgi sé óþörf og um of. Getur verið að svo sé, því „vandratað er meðalhófið“. Okkur er líka sagt, að við séum að strekkjast við að gefa stórar og vandaðar gjafir bara til að fá betra í staðinn. Þetta álít ég að sé ekki rétt. Við gefum það fallegasta og bezta sem við getum vegna þess að við viljum sína vinum okkar að við metum vináttu þeirra, en ekki til að fá betra í staðinn.

Jólakort eru annað sem sumir kalla óþarfa og vitleysu. Er það óþarfi að láta vini sem fjarlægir eru vita að maður hugsar til þeirra? Ef þú manst eftir þeim um jólin, þá manst þú líka þær gleði- eða sorgarstundir sem þú lifðir með þeim og þá eru það minningar sem þér eru kærar. Þegar þú færð ekki kort um jólin þá veistu að þeir eru hættir að hugsa til þín og búnir að gleyma samverunni.

Það er líka sagt, að við séum bara kristin á jólunum. Getur það verið satt? Getur sá neisti góðvilja og elsku, sem mennirnir auðsýna hver öðrum á jólunum sloknað svo, að hans gæti aldrei endranær? Ég held varla. Ég kenni í brjóst um þá sem þannig hugsa og þakka Guði fyrir að hafa verið svo lánsöm að þekkja aðeins fólk, sem sýnir kærleika til náunga síns hvenær á árinu sem er, ef að það veit að hann þarfnast hjálpar á einhvern hátt.

Nei, það eru ekki gjafir, sending jólakorta eða löngunin til að hjálpa náunga okkar um jólin, sem okkur stafar hætta frá, því þær hvatir koma frá hjarta hvers einstaklings og eru sprotnar af löngun til að gleðja og minnast vina og kunningja og auðsýna öðrum kærleika í nafni hans sem fæddist á jólunum. Hættan stafar af því, að verið er að reyna að setja Santa Kláus í stað jólaboðskaparins. Um jólin verða minningarnar altaf skýrastar. Hvar sem maðurinn fer hvarflar hugurinn heim um jólin því flestra endurminningar eru um jólin, sem þeir mundu eftir sem börn. Davíð Stefánsson yrkir:

Nú skal leika á langspilið veika
Og lífsins minnast í kveld.
Hjartanu orna við hljóma forna
Og heilagan jólaeld.

Og nú vil ég syngja og sál mína yngja
Með söngvum um lágnættið hljótt
Og láta mig dreyma um ljósin heima,
Sem loga hjá mömmu í nótt.

Í þessum ljóðlínum eru hugsanir okkar allra skráðar. Svo rennur upp þetta langþráða kveld.

„Og þegar ljósið dagsins dvín
Oss Drottins birta kring um skín".

Gleðin skín út úr andliti hvers barns, sem fær að halda heilög jól í hvað smáum stíl sem það kann að vera. Margir muna eftir jólunum þegar lítið var til af þessa heims gæðum, en töfraðorðið jól gjörði alt veglegt.

Þið sem lifðuð barnæsku ykkar á Íslandi munið eftir því, að á jólunum var öllum gefið kerti. Það var jólakertið ímynd trúarinnar. Við gátum kveikt á litla kertinu okkar, það lýsti okkur í gegn um dimmu göngin, og Jesús með komu sinni í heiminn var það ljós er lýsa átti okkur á vegi lífsins.

En hvað höfum við lengur að gjöra með jólakerti? Nú er altaf bjart, það eru rafurmagnsljos um alt. Þótt ljósin skíni bjart í kring um okkur og jólakertið sé ekki lengur gefið, þá látum okkur ekki gleyma því, að jólaljósið er það eina ljós sem eyðir myrkrinu í sál okkar. Jólahátíðin líður fljótt.

Tíminn flýgur áfram og alt í einu er komið nýtt ár og eftir lifa aðeins minningarnar frá því gamla, sumar fagrar, sumar aðeins um erfiði og stríð, en ennþá vermir hugsunin um jólagleðina, sem ný er afstaðin, og í brjóstum manna kviknar von um að nýja árið færi frið og ánægju. Nú koma annir hversdagslífsins aftur og ósjálfrátt fer kuldinn, sem enginn fann til um hátíðarnar, að verða naprari og naprari og kuldinn og hversdagsleikinn fá aftur yfirhöndina; en aðeins um skamma stund. Enn á ný hefir Drottinn tendrað ljós í hjörtum okkar, ljós vonarinnar um að vorið sé í nánd. „Nú byrja dagar blíðir er blómi vorsins rís".

Við birtu frá hækkandi sól birtir aftur í sálum okkar. Viðhorf okkar til lífsins breytist. Kvíðinn hverfur og það sem áður virtist ómögulegt er nú vel fært.

Við sjáum snjóinn bráðna. Sjáum ár og vötn slíta af sér bönd vetrarins. Sjáum skóginn laufgast og blómin springa út. Heyrum fuglana kvaka um dýrð náttúrunnar. Ósjálfrátt snerta þessi einkenni vorsins og lífsins viðkvæma strengi í okkur sjálfum.

Ylurinn, ljósið og fegurðin í náttúrunni samhljómar lífinu í okkur sjálfum, snertir göfugustu strengi sálarinnar og við förum að hugsa hærra. Hugsa um það fagra og góða í lífinu.

Við dáumst að mikilleik og dásemd náttúrunnar og lútum hinum „Mikla eilífa anda sem í öllu og alstaðar býr". Við finnum að vorið er dagur lífsins. Ylmurinn kemur í stað kuldans, ljósið í stað myrkursins, dauðinn breytist í líf og við gleðjumst og fáum nýja von og nýja trú. Aldrei höfum við þarfnast meira nýja von og trú en einmitt nú þegar við horfumst í augu við þann veruleika að ennþá geti farið svo að allur heimurinn fari í stríð.

Aldir hafa liðið og ár eftir ár hafa verið haldin heilög jól. Gleðiboðskapurinn um „Frið á jörð og velþóknun yfir mönnunum" hefir verið sunginn öld eftir öld.

Öld eftir öld og ár eftir ár hefir vorið komið til okkar mannanna með sína birtu og yl, sína hvöt til að fegra og betra lífið, en ennþá virðist veturinn hafa yfirhöndina. Ennþá er hatur, valdafýkn, öfund og grimd meira áberandi í heiminum en friður og kærleikur. Ennþá eru meira metin þessa heims gæði, og aldrei ætlar okkur að lærast að þau eru einskis virði ef ekki ríkir friður og eining meðal okkar.

Megi jólaljósið altaf skína í hjörtum okkar og í hjörtum þeirra sem leiða eiga heiminn á þessum dimmu dögum.

Megi máttur vorsins megna að bræða ísinn úr hjörtum mannanna svo þeir geti lifað saman sem bræður og systur.

Megi Bandalag Lúterskra Kvenna vera fremst í flokki þeirra sem vilja stuðla að eflingu friðar og bræðralags okkar á meðal.

Kærleikans andi hér kom með þinn sólaryl blíða
Kveik þú upp eld þann er hjartnanna frost megi þíða
Breið yfir byggð
Bræðralag, vinskap og tryggð
Lát það vorn lífsferil prýða.

